# Heidner
eta
# Hrossakiøt.

## Hvenær á ad fara ad slá?

Qvid qvisqve vitet, nunqvam homini satis
Cautum est in horas.

HORAT.





Editio I.

Þryckt ad Hrappsey í því nýa kónúngl. privilegerada bókþryckerie 1776, af Eyrike Gudmundsyne Hoff.





Eingenn hlutr hefr edr hefr haft lakare lucku í heiminum enn Sañleikriñ, og er þad ei so undarlegt, þá menn utí þad hugsa; því fyrer utan þad adSannleikrinn á so vída vid ad koma, ad eingenn er sá þánke í mannlegu hugskote, sem Sannleikrinn se ei vidridenn edr audrum þræde: þá eru fæster þeir þánkar, ad ei seu um einn og hinn sama hlut sundrleiter, so ad þad sem einum sýnez Sannleikr, þad sýnez hinum audrum ecke Sannleikr. Þesser sundrleitu og gagnstædu þánkar edr efaseme um Sannleikann mega med rettu kallaz hin fyrsta rót og uppspretta til allrar mannlegrar ólucku; og sídan eru allar Trúarvillur þadan upprunnar, og allar Þrætur um **mitt** og **Þitt** eru sprottnar af somu rót. Hvør er nú orsok til ad menn eru so sundrleiter um þennann

allradhrmætasta hlut Sannleikann? Þad er í fyrstu ófullkomlegleike þeirrar skopudu Náttúru, og sídan þeirrar saumu vanbrúkan. Hún er ei audruvís moguleg, enn ad hún gete falled frá Sannleikanum, og ad henne kunne ad sýnaz þad satt, sem þó ecke er satt. Þad er alleinasta sú óskapada Vera, sem kallar sig Sañleika, sem ein er viss ad fylge Sannleikanum. Hvor skapadr ande getr þá haldeð sig óbrigdulann, so ei kunne ad yfersiáz (1). Jafnvel ecke i andlegum efnum, já hvad síst, eru menn af siálfsdádum visser um ad hitta á Sannleikann; og ef menn geta ei orded samdóma i so vigtugum hlut, hvar á oll þeirra sálar velferd er byggd, hve ómogulegt er þad þá ad fylgia Sañleikanum í audrum þeim efnum, sem minna áríðr. Já sumer eru so serleger ad ogso í þeim greinum, sem adrer eru þeim samdóma í, þar leita þeir ad mótmælum: víst ei alltíd af þvi ad þeir vili þrátta; heldr af þvi ad þeir líta audruvís á hlutinn enn hiner. Adrer halda allt þad fráleitt Sannleikanum, sem vikr í einhvoriu frá þvi gamla (2). og er giætelega

telega og vægelega um soddann menn dæmande, serdeiles um almúga menn. Þá meiníng, sem einn hefr inndrucked med módrmiólkinne og er uppalenn vid, á hann bágt med ad yfergefa: þó er þar á mikell greinarmunr; þvi ad siá og þreifa á, og iafnvel medkenna ad þad Nýia se betra enn þad Gamla, og vilia þó ei brúka þad, slík einþyckne verdr ei afsokud (3). Hvor er sá, sem ei verdr ad medkenna, ad þad se betra ad brúka situ af þeim skepnum, sem Gud hefr gefed mannnum til notkunar, til lióssa, heldr enn ad sitia í myrkrinu? J þad minsta mættu menn heimta ad þessum gaumlu Fedrum, ad þeir med vorkun og góðgirne dæme um nýúngarnar; þvi eins og þeir eru fastheldner á þvi gamla af þvi þeir halda þad betra; so taka og þeir Yngre þvi ad eins upp þad Nýia af þvi þeir halda þad betra. Enn nú eru þeir nockrer og kannske ofmarger, sem eru hrædder vid ad láta einn edr annann Sannleika beraz útí Almenníng, af þvi þeir eru hrædder vid ad almenníngr kunne ad misbrúka þann sama: þeim

gengr ad vísu gott til, og víst trúe eg ad nockr þvílíkr skadlegr ótte hafe í fyrstunne genged Pávanum til ad banna Leikmaunnum ad lesa í Biblíunne (4); enn þó giora þeir Sannleikanum stórann órett, og avngvu ad sídr hefr sú alvísa Vera openberad ost mauñunum sáluhiálplegann Sannleika, þó Hún í sinne alvitsku fyrersæe ad marger munde hann misbrúka. visse Hún fyrer vaubrúkun þess forbodna tres ávaxtar, og þó skapade hún þad. visse Hún fyrer Misbrúkun eitursins og þó giorde hún þad í náttúru hlutanna. Einn af þeim saklavsasta og þarflegasta Sannleika er sá, sem kenner ost sidu og frañferde so vel vorra forfedra, sem og annara þióda og eru þó marger af þeim óleyfeleger og ósæmeleger; ei ad sídr eru þeir sumer uppteiknader í Biblíunne og marger góder og vitrer menn hafa þar um giort heilar frásogur og láted ei óttann fyrer Misbrúkuninne hindra sig frá Sannleikann ad openbera. Nú er þad so náttúrlegt og óumflýhanlegt, ad sitt kann sýnaz hvorium um Sannleikann, ad sá má

fara

fara út úr heiminum, sem eingen mótmæle vill þola: og eg ætla þad skyldt ad taka aullum þeim mótmælum vel, sem gioraz í gódre meiníng. Enn þvi verr og midr ad slíker suudrleiter dómar um hlutina og mótmæle ske ei alltíd í Kiærleika; heldr koma stundum af edr í þad minsta blandaz med drambseme, reide, illgirne ꝛc. Þeir sem tala yfer haufud um almennelegann Sannleika og eiga ei málstad vid einn heldr enn annann, þeirra ræda er epter þeirra náttúrufare hitsug edr hægferdug: og þó skorugslega se um hlutina talad, þegar þar til brúkaz eingen liót ord edr ósæmeleger talshætter, þá er slíkr skorungskapr heldr lofsverdr enn lastande. Sama er og ad segia um aull mótmæle, þá menn geyma vel þeirrar virdíngar, sem hvorium ber ad sýna, þá er einlægne og alvorugefne gódr kostr; þvi ad fidra vid hlutina og tala ei skilmerkelega, má heldr kallaz smiadr enn sannleike: og þó stendr einatt so á, ad þetta smiadr verdr ad brúka, enn þó ógiarnan í þvi sem menn láta á prent útgánga, og er betra ad sleppa

soddan og skrifa ecke, heldr enn ad skrifa ei skilmerkelega. Enn þegar einn blandar vid sín mótmæle brigdslyrdum, hádyrdum, illyrdum &c. þá er avdsed af hvorium anda hann talar. Enn hvornen sem aullu þessu er vared, þá elskar sá oflíted Sannleikann og annarra gagn, sem ei vill þola skickanleg mótmæle edr láta þavg útberaz; þvi hvor þorer ad segia ad hañ einn hafe hitt Sannleikann og ad mótmælen seu ravng? Eg hefe nú fyrer stuttum tíma skrifad nockur blød fyrer Hrappseyar Prentverkid um **Hrossaslatr:** þad mesta af þvi er epter audrum skrifad, og eins og eg þar sagde: „ þeir mega siálfer forsvara sig". Eg merke og ad nóger verda til ad taka þá í forsvar, so þeir þurfa ei mins forsvars med. Eg hefe so lítt trúad siálfum mer, ad eg hefe kallad þad eins vïst „ ad þad sem eg nefnde Hleype- „ dóma hiá audrum være hleypedómar „ hiá siálfum mer". J þvi Skrife er þó avngvum tilráded Hrossakiot ad eta; þvert á mote ber Skrifid siálft med ser, ad Hrossakiots át hafe til forna vered

halded

halded víst merke til heidendóms, og ad af Hrossaslátre mætte gott gagn hafa án þess ad eta þad; enn mer hugqvæmdez ei ad ráda frá þess áte, þvi eg visse avngvann so avdginntann, ad munde eta þad þó hann heyrde þad so brúkad i forneskiu edr hiá audrum þiódum, og ei hefer eg meira heyrt til þess sídan þad var þryckt, enn ádr. Enn nú er þad aptr þryckt í Hrappsey med nockrum vidbæter; þvi þá Prófastr Sr. **Gunnar Paalsson** gat um í brefe til mín ad sá hlutr være ecclesiastice og politice vidqvæmr útaf þvi sem hañ hafde þar um lesed í þeim Donsku Mánada Frettum, þótte mer verdt ad bæta þar nockru vid. Enn velnefndr Prófastrinn hefr halded þav fyrstu Blod so háskaleg, ad hann hefr láted eitt Varúdar-skrif útgánga og sendt þad aullum Prestum í þessare Sýslu til ad avglýsa þad Sautnudunum. og med þvi eg elska Sannleikann og villde sídr enn ecke hafa nockurn med mínu brefe í villu leidt; þá fylger þetta Prófastsins Circulaire bref aullum til vidvorunar her med, so hliódande.

 Veru-

" Æruverduger og Vellærder
# Domini Paſtores!

*Scientia inflat, Charitas ædificat.*

" Þad hefde eg miked ógiarnan viliad
" ad þad medal vor edr hiá gódum grønn-
" um vorum uppkomed hefde, ſem nú
" ſez nylega á prent útgenged í Grapps-
" ey um Groſſakiøt einkanlegaſt þeſſ
" At; þvi í ſannleika hagar þvi efne
" eins nú og her hiá oſſ, ſem i øllum
" løndum og á øllum tímum Chriſten-
" dómſins hagad hefr, ad ſlikt er alltíd
" og almennt fyrer ſvivirding og hneig-
" ſle álited, og þó ſá citerade Ham-
" borgarlækner ſe edr hafe vered einn
" hálærdr madr; þá er ſamt vitanlegt,
" ad þeir Hálærdu hafa og laungum
" villz i ſinum meiningum, margann á
" tálar dreged, margt ſer ofmiked leyft
" ad ſkrifa, og þvi ei ſig adgefande ſer-
" hvoriu þeirra glenſe og gliſe*). Og
" þad veit eg, ad hvørſu lærdr ſem hann
" vera kann, mun hann alldrei ſtraum
" af

*) Prófaſtr Sr. Gunnar er Hálærdr Madr.

" af þeim standa fyrer Guds dóme, sem
" epter hanns munnmete til þeirra hluta
" gánga sem Christindóminum eru til
" spillingar *), hvad hid sama segia er
" um hvørn annann, sem líkann eda sa-
" ma ferel frammgengr. Ei sége eg ad
" þav áviknu Zrappseyiarbløð egenlega
" leyfe mønnum edur bióde Zrossakiøt
" ad eta; enda er þá einnig so miked víst,
" ad þav þar ei frá ráda, og sú grunn-
" hyggne margra og breiskleike ad á þá
" leid munu taka, ef ei alldeiles fyrer
" fullt †), og þar fyrer allt offlíótt frekt
" og óvarlega ráded, ad hestaz þaneg
" uppúr eins manns hlióde í slíku efne.
" Og hvad umgetenn Hamborgar-
" lækner áhrærer þá siáe menn til
" ad ei merkez þad ønnur christen lønd
" hafe hans Lærdóm í þessu medteked §),
" og

*) Því er so ógiætelega talad um so virduglegann mann fyrer sakleyse?

†) Undarlegt ad geta so til landa sinna, edur þó einn edur fáer fyrer neydar saker kunne breisker ad vera, ad geta so til margra.

§) Því á ad geta meire ómennsku til Íslendinga enn annara þióda? *Charitas ædificat*,

„ og mun oss þá ei nær ad dansa epter
„ hans eins pípu og þad med nyung
„ og umbreitíng, enn ad-halda vid for-
„ nann Christninnar sid, med ótal mørg-
„ um ødrum lærdum vísum og velsidu-
„ dum og gudhræddum hønum án efa
„ avngvu sidur. Og sama er ad segia
„ um eins manns hlióð edur nockurs-
„ konar bendíng í áttina her hiá oss*).
„ Se eg víst þar citerud ord eins mer-
„ kelegs

cat, seger Prófasturinn: imo, Charitas non cogitat malum. Madurinn er saklaus þó hann edur einhvør annar, sem í hanns Skrif er innfærdr, sege frá því hvad i syrndinne og so hiá ødrum þiódum vidgangez og hafe vidgengez. Med so móte være øll Sagnaskrif skadleg og óleyfeleg. Pvi mega ei Islendíngar lesa þvílíkt ser til fródleiks og skemtunar eins og adrar þióder? og er þad mála sannast ad flest strá vilia oss stínga.

*) Lángt var þad frá mer ad eg vilde leida edur benda neinum til ad eta Hrossakiøt ad navdsynialavsu, þó eg helde gott ad breña heldur Hrossakeite eñ sitia i myrkrinu.

„ kelegs Guds manns á medal vor, enn
„ alleinasta einn vissann part edur púnct
„ efnisins áhrærande, so þar af kann ei
„ meint efne stirkiaz *), so sem og vit-
„ anlegt má vera øllum ad avngvann
„ munde hann vilia fleka eda útá neina
„ hálku leida. Kosta soddann umbreit-
„ íngar meire athygle og fleire vitra man-
„ na yferskodan enn þad einn kann úr
„ erme sinne frammhrista í skyndíngu og
„ med sitt eindæme †), ad eg nú ei þar
" um tale hvad Guds ord seger um
„ ásteitíngar efne, ne heldur her af fliótande
„ forsmaan utanlands sem innan.
„ Nú

*) Stirkiaz víst, nefnel. ad Forbod um Hrossa-kiøts át seu Páfasetníngar; enn þar fyr-er rædr hann avngvum til ad eta þad, þó hann sege hvad satt er.

†) Ei kann eg ad vænta sáfródum Skrifum mínum betre Dóms; enn eg þikez ei htista þad úr minne erme, sem eg skrífa epter gódum og vitrum mønnum, þó life eg í þeirre von, ad nockrer góder og lærder menn mune dæma mig med vægd og nærgiætne, þvi eg er saklaus af þvi, sem Prófastrinn skuldar mig fyrer.

„ Nú heyrez heldur enn ecke trúanlega
„ svo og svo um medferder manna í
„ þessu efne ad vísu ei án margra ásteit-
„ íngar *), hvar fyrer Ydar Eruverd-
„ ugheitum her med tilsegez, so ad al-
„ menníngr her í Syslu fáe nockurt
„ annad hlióð ad heyra med sínu ødru
„ eyra, vid serhvoria Kyrkiu þar em-
„ bætted eina epter adra hid fyrsta op-
„ enberlega upp ad lesa Há-Edla Hr.
„ Byskups Finns Synodale ársins 1760
„ þessum hlut vidvíkiande, hvørt þer
„ hafa munud í Ydar Ministerial bók-
„ um, vid hvørt einneg þer hafed Ydur
„ ad hallda bæde heimuglega og open-
„ berlega hid besta og trúlegasta med
„ Fortølum, áminníngum rc. Hvar um
„ eg ásamt ødrum Guds ordum álít
„ yfred lióst og fullkomed þad Paulus
„ skrifar þeim í Róm og Corinthu borg.
„ Og sannlega þiker mer menn vera her
„ fyrer Siárpestarinnar afletter og ønn-
„ ur þolanleg kiør Guds giæsku um ann-
„ ad þacklæte skylduger enn tieda van-
„ virdu og Christendómsbligdan. Margt
„ mætte

*) Sá sem fyrer serhvørn þvílíkann grundvallar-
lausann þvætting vilde skrifa Varúder hann
sær nóg ad giora.

„ mætte her um ad sønnu meira
„ tala og serílage útaf þeim áminstu
„ **Hrappseyiar Bladagrey-**
„ **ium**; enn það er ei þessarar stund-
„ ar ne hentugleika, og þar med kannske
„ mer gømlum ei vel fært edur leyfelegt
„ epter **Erfdabæklingsins**
„ **Formaala vírduglegum***).
„ Mer þiker allgott ad her elskuleger
„ og æruverduger Brædur þetta mitt
„ einfaldt Bref ásamt nefndu Synodali
„ Yðorum sofnudum avglysed og mína
„ kiæra qvediu Guds fólke bered, so
„ eingenn þurfe þessa fyrertekt Yður
„ fyrer einþyckne edur serlynde útleggia,
„ ef þer annars þesse mín ord í þvi gilde
„ álýted, vid hvørra meiníng blífa þik-
„ ez verda medan ei betur af vorum
„ **Nywungameisturum** upply-
„ sez og leidrettez, og vonaz ad þeir
„ vitru ei forþenke, þó fleire enn einn
„ kunnę brúka friálsann munn og pennat).
„ Þetta bref verdur af Yður góder
„ Brædur

*) J þeim Formála er talad um Jarda Nídslu.

†) — placeat sibi qvisqve licebit.

Ovid.

„ Brædur sem fyrst coperaz, sendaz og
„ avglysaz og mer so reglulega til baka
„ frá þeim sídasta. *Attendite vobis* &c.
„ Act. 20. v. 28. Gud se med Ydur
„ øllum seger

# Ydar Æruverdught.

Ziárdarhollte
d. 24. Februarii 1776.

Vinur og Þienare
## Gunnar Paalsſott.

„ P. S. Zrossakiøts Liósmetid kemur ad
„ sønnu sidur vid *nostro foro; sed*
„ *flamma fumo proxima, & facilis*
„ *descensus averni.* Valete."

Þetta Velæruverdugs Prófastsins bref er her med láted á þryck útgánga, so ad aller siáe, ad hvorke eg sem skrifade um þetta efne þad so af Prófastinum kolludu **Hrappseyiar bladagrey** edur þeir sem þad prentudu vildum hafa leidt nockurn í freistne med þeim. Og hefde eg getad ímindad mer ad nockur munde

munde halda þad so háſkaleg ſkylde eg þavg alldrei ſkrifad hafa. Eg vilde óſka ad eg hefde vered búenn ad ſiá edr heyra þetta Prófaſtſins Skial ádr eg ſkrifade Viðbætirinn, ſem þvi ſídara upplage fylger, þá ſkylde eg ei hafa talad ſo ſkorenordt um Tilgáturnar; þvi mer gat ei í hug komed ad Prófaſtrinn munde ad óreyndu geta þeſſ til landa ſinna, ad þeir fyrer þeſſe blod færu ad navd-ſynialavſu ad eta Hroſſakiøt. Nú er þad ſkrifad ſem ſkrifad er og verdr ei aptr teked; enn bid Prófaſtinn vel ad virda; þvi eg vilde hann í avngvu óvirdtann hafa (þó eg nú ſiáe ad hann færer miøg ſo á verra veg fyrer mer) eda nockurn mann ſer í lage, þó eg yfer hofud ſkorenordt um hlutina talad hafe.

Þá eg hafde þetta ſkrifad ſýnde eg þad einum gódum og lærdum manne, hvors nafn um ſinn ei nefne, og ſkrifade hann nockrar Rokſemder vid þá Póſta, ſem ad framanverdu er tilvíſad med Taulu-ſtaufunum. Þeſſar hanns Rokſemder eru ſo ſnotrar og ſkinſamlegar, ad eg

 get

get ei bundez fyrer ad láta þær her med fylgia. Hann seger:

1) Þvi í einum og hinum sama hlut kann ei vera utann einn edr einslags Sannleikr; enn þá 2. edr fleire hafa sundrleita þánka um þañ sama, þá hlýtr einn ad hafa rett enn hiner villaz og víkia frá Sañleikanum.

2) Þegar **Sañleike Gudhrædslunnar** edr sú nú yfer allt brúkanlega Catechismi Utskíríng **Pontoppídans** kom her fyrst í landid, voru þad ecke einúnges almúgamenn, sem dæmdu illa um hana og heldu hana ecke fyrer ómeingad Guds ord; heldr og so þekte eg þá Lærda men. bæde medal Geistlegra og Verdslega, sem færdu fíngur uti margt þad í henne, sem nú kemr aullum saman um, ad se óefanlegr Sannleike, og avøgann þecke eg nú, sem kallar neitt þar inne Villulærdom. Hvort nú þesser sem þanneg dæmdu häfe ei betr vitad, edr alldrei viliad gefa ser stunder,

sok=

søkum leidinda sem þeir fengu á þessum Nÿa Lærdóme vid þá fyrstu fregn og ádr enn þeir sáu hann til ad lesa hann med soddann atshygle ad þeir fenge hans rettu meinîng og so samanheng i høfudid skal eg ecke fyrer vïst segia, þó mer þike þad sïdara liklegra; þvi þá menn hafa heyrt illa talad um eina bók og þeir koma þá vid fyrsta lestr ofaná þad, sem þeir hafa heyrt adra fordæma og geta ei strax funded sig í þvi, fleigia þeir henne aptr fordæma hana epter fornum ordróme án vïdara ransaks. Þegar þetta eru almuga menn þá er vægelega um þá dæmande.

3) Hafe nú þad dÿrmæta Guds ord, sem í þessum Bæklînge er framboreð ecke haft betre luckn, hvor skylde þá vilia kippa ser upp vid þad þó hann fenge missiafna dóma edr ætla til ad hann fenge þá ecke í þvi sem minna árfor, þegar hann kemr upp med nockud nÿtt sem ei hefr vered i brúke hiá Forfedrunum

 edr

edr sýnez ad skrída á móte vidteknum meinfngum. Þad má vera so gódr Sannleikr sem gefaz kann, hann er þó alldrei í fyrstu þá hañ uppkemr álitenn fyrer þad sem hañ er, af øllum; og her fyrer liggr margr nytsamlegr Sannleike nidrgrafenn í þavnkum margra vitra manna, sem alldrei kemr upp af ótta fyrer ómildum dómum, sem þó er ravnar heimska, og hvad meira er ad segia, Synd; þvi ad dylia þann Sannleika, sem kann ad uppbyggia Almúgans velferd, og þó þad se ecke nema í líkamlegum hlutum er násktylt þvi ad leggia hindraner í veg fyrer Náúngans atvinnu, sem reiknaz medal þeirra synda, sem fyrerbodnar eru í siøunda Bodordinu.

4) Og saumu þánka hafde einn ólesande bónde á Vestfiordum (sem eg hefe heyrt frásagt) ad hann villde ei láta kenna sonum sínum ad lesa á bók, þvi hann óttadez ad þeir munde þá læra galldr, af þvi hann hafde

hafde þá innbirling ad aller bóklærder væru galdra menn, og ei feck Prestrinn med sínum fortolum þessar grillur frá honum rýmt.

Hvor vill svara uppá þá spurning med Reyorde hvort oll sú gagnsemd af Hrossunum, sem ei er fyrerboden í Guds orde og Logunum og menn kunna ad hafa, se útelukt úr fiórdu bæninne hvar ver bidium um daglegt bravd? Eda hvor vill segia ad Forfedr og Fedr vorer hafe so útgrundad allar gagnsemder skepnanna ad þeir hafe oss eckert óskodad edr óreynt epterláted? Dagleg reynsla sýner þad, þó þeir hafe annadhvort ecke viliad ne getad (yferkomez) ad brúka þad allt þá þeir hofdu ótal landgiæde, sem ver nú soknum. Mun nú ei tíme, ef nátturunne fer so miked aptr, sem sumer segia, ad nýta ser þad sem nýtt verdr ad syndlavsu? Hvad lenge skulum ver láta Samvitskur þeirra, sem eckert þola ad brúkad se, nema þad sem er 300 ára gamallt, og af Pavalegum mindugleika helgad og vígt, sitia fyrer gagne voru? Edr

 hvad

Hvad lenge á óttinn fyrer vanbrúkun fárra heimskíngia edr gudleysíngia ad halda leyfelegre brúkun navdsynlegra hluta i æfenlegre útlegd, landinu til stórs skada og peninga tions?



Hvenær

## Hvenær á ad fara ad slá?

Þad veit eg ecke og villde giarnan læra þad af reyndum og forstandigum búmønnum. Enn víst ætla eg mik-ed ríða á þvi, ad þad se hvørke ofseint ne ofsnemma. Sá ypparlege Svenske Boye talar so þarum: „ Ei kemr „ øllum saman um tímann nær fara „ skule ad slá gras; sumer vilía slá þad „ medan þad stendr med blómstrum; enn „ adrer ei fyrr enn þad hefr fellt fræ; „ enn reynslan hefr kennt mer ad hvo-„ rutveggia er skadlegt; þvi se grasid „ sleged ádr enn þad er fullþroskad, þá „ uppþornar þad og madr fær varla „ helmínginn af þvi, sem menn hefdu „ kunnad ad fá; enn þad sleged ofseint „ misser sinn besta krapt, verdr hart og „ notaliteð." Zincken seger í sínu Oeconomiska Lexico, ad snemmsleged hey se lángtum lostætara og betra til miólkr heldr enn seinsleged. I allgemeine Haushaltungs- und Landwissen-

 schaft

ſchaft ſeger: „ Hvør Urt hefr viſſañ
„ tíma til ad bera blómſtr og ſo hefr og
„ graſid ſína tíd. Þegar ver athugum
„ Náttúrunnar atferd hiá ødrum Urtum
„ þá finnum ver ad þó blødin ſiáe vel
„ út medan blómſtr tíminn yferſtendr,
„ viſna þad þegar Urtin kaſtar fræ.——
„ Nú eru blødin ſá beſte partr Heyſins
„ og verdr þvi hvad helſt epter þeim ad
„ líta. —— Graſid hefr ei fenged ſína
„ fulla ſtærd fyrr enn Stavngin er full⸗
„ ſprottin, epter þá tíd ſer blødunum ſo
„ fliótt aptr ad menn tapa tuttuguſinn⸗
„ um ſo miked under, ſem menn græda
„ ofantil. —— Heygiædin rída meſt á
„ tveim hlutum: nefnelega á tímanum
„ nær þad er ſleged og á þurkuninne,
„ og ridr þó ei minna á þvi fyrra enn
„ á þvi ſídara." Til þeſſa griller oſſ
„ og ſo ſuma; þvi menn heyra opt bændr
ſegia ad graſid „ ſe vaxed úr ſer og halda
„ þeir þá heyid ei ſo krapta⸗miked ſem
„ annars.

Nú er Spursmálid, **nær ſka rette tiime ſe til ad ſlaa graſid?** Iaud⸗
rum

rum laundum fara bændur miøg so epter árstímanum. Adrnefndr **Zincken** seger ad þad giørez almennelega seinast í Majo og fyrst í Junio. **Aphelen** i sinne **Naturhistorie** nefner þar til Junium og Julium. Og so gengr þad alment hiá oss, ad menn kalla ad sláttutíme se komenn þá 12. vikur eru af sumre. Sumer fara þó enn nú seinna ad slá þá seingróed er, enn fáer fyrr þó snemmgróed se. Ei má þvi þó neita ad bændur til forna hafa her um epterþánka haft; enn nú eru þav munnmæle, ad gras se fullsprotted, og þá komenn tíme til ad slá þá bidukollan fer ad falla. Þesse gamla trú sýner hvad miked Túnum se aptr fared nú á vorum døgum; þvi Ætefífill, sem bidukollan verdr af, vex ei utan í ræktar iord nærre bæum og húsum; enn þá hann óx út um aull Tún mátte nockurt mark á honum taka; núecke, þar sem hann vex ei utan í hladvorpum og under húsveggium. og hefer eg marg opt sed bidukolluna falla, þá gras hefr hvorge nærre vered fullsprotted út á túnum. Sá ádrnefnde góde **Boye**

talar her um soleides: „ Eg er vanr ad „ slá, seger hann, þá Rød=Koll blóm= „ strid byriar ad visna. Þá hefr grasid „ sinn fulla krapt, sem útheimtez til „ góds og heilnæms fódurs. Her í „ ser eg miked epter Nýu túngle, sem „ er serdeiles nytsamlegt fyrer epterkom= „ ande árs grasvext. Rúggras (Ely- „ mus arenarius, Melr. Norv. Strand= „ rug, Ruggræs Gunnerii Flora Norv.) „ og Taatel (Aira cespitosa. Norv. „ Fræng, Frobunke, Enkebunke. er ein= „ slags Puntgrese) á ad sláz 8. dogum „ epter ad þad hefr útskoted axe. All= „ ar'mýrlendar Engiar, Star og Sæ= „ grese á ad hirdaz fyrer Midsumar." Rød=Koll kallar Aphelen og Oeder í sínum Nomenclatore botanico, Trifolium pratense, þad er sá ravde Smá= re. Hann nefner Køning á medal þeirra íslendska Urta, enn ei hefer eg orded var vid hann her í Dala Sýslu, og mer er til efs ad í þessu efne mune tiá ad fara epter nockurre vissre Urt, all= rastist smárra, sem her hiá oss blómgaz í seinna lage, og sídan eg fór ad athuga

þad

þad, hefer eg nú i nockur ár ei vitad hann komaz so lángt ad hann fræ kaſlade. Sama merke ſeger **Gunnerus** ad Norſker take á hvíta Smáranum, enn þad tiáer oſſ ecke. Hvad áhrærer þad ad ſlá med Nyu edr vaxande Túngle, þá kemr mer í hug þad, ſem einn gódr Norſkr forſtands madr ſeger í ſínu Oeconomiſka Calender innfærdu í þad Oeconomiſka Magazin, ad feitt Enge (þad er velræktad Tún) ſem ſleged er med Nýu Túngle i Julio, mege aptr ſlá fyrſt í Septembri. Og marger beſtu bændur fara miked epter Tulngs aldre í ſínum búſkapar reglum, adrer hirda þar eckert um. **Aphelen** kallar þad Sláttartíma rettañ þá graſid fare ad gulna og ſtendr í fræ. **Linnæus** getr i ſinne Skáneyiar Reiſu og Flora Svecica um ýms merke ſem bændr þar brúke, enn eg ſleppe þvi aullu, þvi eg ætla fæſt edr eckert af þvi brúkanlegt fyrer oſſ Iſlendínga, þó annarſtadar kunne gott ad vera. Eg vil þvi innfæra her þad ſem eg finn í þvi ádrnefnda Engelſka Skrife edr **Haushaltungs Wiſſenſchaft**, þvi mer ſýn-

ez þad kunne vid aull laund eiga. „Hei-
„ le hlutrinn, seger þar, rídr á þeirre
„ grundvallar Reglu, ad allar Urter hafa
„ sinn vissann fullkomunnar tíma og
„ kunstin er í þvi innefalen ad bóndinn
„ vite ad þeckia þann sama, haga ser
„ þar epter og færa ser í nyt. Þesse
„ Urtanna fullkomnunar tíme edr stand
„ gefur sig tilkynna þá þær blómgaz;
„ og allteins og sá sem safnar Urtum
„ til lækninga fer epter þessu, so verdr
„ bóndinn þad eins ad giora. Þetta
„ Fullkomnunar stand má þeckia á Urt-
„ unum bæde hátt og lágt; þar fyrer
„ má bóndinn um þann tíma iduglega
„ athuga bæde Tún sitt og Einge og
„ ser í lage Pyntstráinn; þá ser hann
„ ad þeirra hofud þrútnar smámsaman
„ og um síder verdr hann var vid fáeina
„ hvíta ánga; á sumum Pyntstráunum
„ standa þeir uppúr fræhulstrunum enn
„ á sumum hánga þeir útur. Þetta
„ eru grasblómstrin og þá er sláttutím-
„ inn fyrer hende. Enn ei hiálpar ad
„ gefa sig ad þó þetta siáez á einu edr
„ fáum stráum. Þess fyllre og vænnre,
„ sem

„ sem Pyntrinn er i Kollinum, og þess
„ líflegre sem litrinn er á grasinu ned-
„ an, þess betra er þad; enn epter þvi
„ sem hofudid, edr fræid þári, roskna
„ epter þvi docknar grasid nedan og þá
„ fer þad ad missa kraptinn; og þetta er
„ merke til, nær tíme se ad fara ad slá."
Þetta er nú þad serlegasta inntak af þvi sem þar talar um þetta efne. Blómstrin eru avdþektare á sumu grase enn sumu, enda er mikell munr á þvi, hvoriar grastegunder heldr vaxa á einum velle enn audrum. A Soley, skarefisle og Kornsúru, sem helst vaxa í Túnum eru blómstrin avdþekt, þó kannske sumer villez um Kornsúruna; þvi Kornin á stavnginne eru ei fræ heldr verdr úr þeim blómstr og sídan fræ. Sama er ad segia um aunnur Urtakyn, sem hafa blómleg brúdartiøld (corollas) þad er hægt ad þeckia. Enn á Túnsúru, Mariustacke og þó ser-deiles á Pyntgrese er ei avdþekt. Pyntgrese vex helst þar sem griótskridr eru under; sumer bændur medal vor halda mest af þessu grase, og være þvi verdt ad þeir lærde ad þeckia þess friovgunar

ad-

adferd. Enn þad er hid vissasta merke, þegar hvítu ángarner sem ádr er sagt, siáz koma uppúr Frióhulstrunum. A Melnum eru þeir avdþekter, þvi þar hánga þeir útur med aflavngum eitle á endanum. Nú ætla eg ad sumum gras-tegundum ligge ei so fliótt á ad sláz so sem sumum, og kannske Pyntgrese tape seinna krapte sínum heldr enn annad gras, hvar um eg veit ei, þvi eg hefe líted af þvi grase í mínu Tune. Enn eg þecke so bændur, ad þá hlutrinn er vakenn fyrer þeim og þeim bent til med nockurre Undervísun, hafá marger af þeim góda epterterkt og athugaseme, og meira vantar þá áræde til ad taka upp nýtt og leggia af þad gamla, heldr enn ad þá vante skilning og eptertekt. Eñ mikenn grun hefer eg á þvi ad marger giore ser stórann skada med þvi ad þeir fare osseint ad slá. Nú verdr þvi med sonnu svarad, ad gras sprette so seint, ad þad se ei sneñlægt, og allr fiolde bænda er á þeirre Trú, ad Tún sprette ei fyrr enn nóttina diñe, og þad er og satt; enn mun þad ei koma af vana

á túnum og ræktarleysu? Eg hefe ann-arstadar þess geted ad þad mætte venia gras til ad spretta snemma, og ad þad sprette þess fyrr, sem þad er fyrre sleg-ed. Enn þad hefr mer og reynst ad sá vollr sem til forna var seinn til ad spretta er nu fyrre fullsprottenn sídann eg hefe ræktad han, og þarf nú ei ept-er honum ad bída þar til nóttuna dimm-er. Eg hefe og á ræktar túnum sed miklu minne mun í grasleyses árum heldr enn á þeim illa ræktudu, og er þvi kannske minna ad kenna iardlage og vedrátt hvad snemma grær edr hve mik-ed, heldr enn menn almennelega ætla. Grunsamt hefer eg þad ad þegar bænd-ur í gódum grasárum, þegar nýtíng er líka góð, qvarta um þad ad ei vili miólka af heyiunum, ad þad kome af þvi ad gras se ofseint sleged. Heyrt hefer eg og, od stærre bændur, sem ha-fa fleire menn til sláttar, qvarta stund-um um þetta sama, þar sem Kotung-ar qvarta ekkert. Þetta er gott ad skilia. Einvirkinn slær fyrst þad sem best er sprotted og so frammveges, sprettr þá

hitt

hitt á medan, sem seinna er á ser, og fær hann þvi mest alla todu sína slegna í tækann tíma. Þar á móte hiner, sem meire mannasla hafa komaz sliótar yfer og slá ádr enn fullsprotted er, og ádr enn grasid hefr fenged sinn fulla krapt, þvi medal hófid er margratad, og þá sýnez betra ad slá heldr fyrr enn seinna. Þad er þvi liklegt ad næst Guds blessun, se mest under nærfærne og greinesemе bóndans komed. Enn er þad, ad eg hefe miklu sídr vitad skemaz hey á túnum í oþerra sumrum, hia þeim sem snemma hafa fared ad slá, heldr enn hiá hinum. Þess má eg geta ad þad er her almennt ad raka Todusleckе strax hráa í rifgarda; þad fordæmer ádrnefndr Boye: og sídan eg hefe láted leggia þad af, hefr mer þótt betr fara. Hrátt hey, serdeiles snemmsleged, þoler ótrúanlega miked, ef þad er láted liggia ómakslaust, þartil þad fær gagnlegann þerrer; þar á móte skemmez þad sliótt, þá vered er ad rugla í þvi vid hvoria skæru og skúra upprof. Enn um þurk og medferd á Heye má miked skrifa, sem

eg er lítt fær til, þvi þad útheimter bæde forstand og reynslu. Vil eg til þacka taka ef eg fæ fyrst ad læra um tímann nær slá skal gras og sídan hverju best verdr med þad fared epter ad þad er sleged.

Um þetta skrifar ádr umgetenn gódr Madr á þessa leid: Vel líkar mer þad sem her er skrifad um byriun Heyslátt=ar og þikez finna ad þad satt er; enn eitt kemr mer í hug nefnel. ad her í lande se bágara ad áqvarda vissann tíma til Sláttar enn í audrum laundum, þar sem meire frióseme er. Kríngum bæe er grased á maurgum Jordum sprotted úr ser, og fared ad fúna, þegar þad er ecke hálfsprotted á úttúninu þar sem eck=ert er ábored, þvi eg held þad bíde all=drei so lenge ad þad verde epter gefnum teiknum fullroskнad til sláttar, þvi þad er ad fylldaz fram̃ under Hofuddag. Enn munde mønnum ei vera betra ad byria fyrst á eingium, þá þær eru betr sprottnar ad sínu leite, sem opt skedr á raklendum Eingium í þerra Sumrum? Eg held menn giore ser skada med þvi

ferſinne, ad þegar fared er ad ſlá túnid, nudda menn þar ofani hvornen ſem á-ſtendr og vilia ei ſlá hogg annarſtadar fyrr enn þad er uppbared illt og gott. Medan ei kemz almenneleg Ræktun á Tún og men læra ei rett ad þeckia af reynſlu nær graſid er mátulegt til Sláttar, hielde eg gott, til ad koma gódum vana á Tún til ad ſpretta ſnemma, ſlá ſnemma í gódu graſ-áre, og bera ſo ſnemma og vel á um havſt-id ádr háinn bitez og moka ſo vel úr edr dreifa út um allt ef ei yrde vidkomed ad vinna á, ſem þó fære allrabeſt, þvi þá held eg yrde ſnemſprotted árid epter, og kiæmez ſo ſtrax vaninn á.

## Allgemeine Hauſhaltungs- und Landwiſſenſchaft.

„ Þegar graſid vex upp í pynt þá út-
„ tæmer þad rótina, og blodin þor-
„ na upp. Þetta ſkedr fleſt ſlægiulaund,
„ og þar af kemr þad ad iordin ormag-
„ naz meira af þvi þá hún er ſlegen enn
„ þó hún ſe beitt. Þad land ſem árid
„ um kríng er einaſta til beitar brúkad,
„ þar

„ þar bíß pynturinn af iafnótt og hann
„ sprettr og saumuleides blodin, enn ný
„ koma í stadin, og med þvi þad verda
„ iafnótt afbiten ádr enn þad verda so
„ stór ad þad rótina úttæme, so tapar
„ jurtin ei sínum kroptum og rótin bi-
„ heldr sínum stirk og frióseme. Jord-
„ in ormagnaz þá ei so miog af graf-
„ vextinum og tedslan bæter hana og so.
„ — Medan puntrinn vex ecke, þá leggr
„ rótin yferstiótanlega næríng til bladan-
„ na; enn þegar puntrinn vex, þá tekr
„ hann til sín þad mesta af næríngar vok-
„ vanum og blodin fá þess minna. Þegar
„ Fræid fer nu ad þróaz, þá hefr Nátt-
„ uran alla sína umsorgun fyrer þvi, þvi
„ þad er hennar tilgángr og urtanna voxtr
„ er þar til helst giordr ad þær bere fræ."
Þetta er til stadfestíngar þvi, sem eg hefer annarstadar sagt ad bit skepnanna er náttúrlegra og hollara fyrer Jordina enn ad slá gras af henne.

* * * * *

## Det Kongel. Svenske Academies Afhandlinger 1745 Nr. XI. Hr. Kalm.

„ Þad

„ Það er ein almenneleg umqvörtun
„ á aullum staudum, að Eingiar-
„ nar (Túnin) verde hvört ár avmare og
„ avmare, og að grasvextinum fare ár-
„ lega aptr, so að hann er nú ei lengr siálfum sér
„ líkr; so að þar sem til forna fenguz 30 edr 40.
„ Heyhlöss, þar fáz nú valla 10. og stundum
„ minna. Spurie menn að orsökinne her til, fá
„ menn sialdan annað svar, enn að iørdin se
„ ordin gaumul og þreitt að bera meira, og að
„ aull blessun se horfen; enn sialdan heyrez um
„ það talað, hvorsu iørdin se ræktuð og forbetrud.
„ —— 1741 þá eg reiste um í Upplande og Vest-
„ mannalande, sá eg í einum stað hvar grasið stóð
„ so hátt eins og Kornsæde, þar þó eingið allt um
„ kríng var so miøg avmt og so snøggt eins og það
„ være uppured. —— Sá mikle grasvøxtr, sem var
„ á þessu eina sticke hiá þvi sem hinum kom ei af
„ andru, epter því sem mer var frásagt, enn að
„ það hafde vered plægt og brúkað eitt ár fyrer akr,
„ og sídan teked aptr til að bera gras.“ Siáum til!
Í øllum løndum er pottr brotenn enn
hvorge so molbrotenn so sem = = ;=.
Nú er grasið á Túnunum hiá oss orðeð so dádlavst
að hvørke gefr Miólk ne Myke með góðum krapte;
þvi epter Krøptum sóðursins fara kraptar Mykiun-
nar; og á sumrin þegar Mikian er sem kraptamest,
láta aller kýrnar liggia úte. Er þá undarlegt þó nú
fáez ei eins góðar kýr og til forna. Þær verda nú
að lifa að helmínge á úthøye og þar fyrer utan er
tadan kraptalítel. Og túnin gagnlega ræktuð, þó
alldrei plægð være, geta gefeð Kúnum nóga og góða
tøðu. Áburdrinn er kraptalítell og sídann illa
nýttr, hvors er þá annars von enn að túnunum
árlega aptr fare?

